Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

45. tölublað 28. nóvember 1978 verð kr. 100.-

# 8% Kauprán 1. desember



Þessi ríkisstjórn hefur staðið fyrir gífurlegum kjaraskerðingum og mun halda því áfram ef henni vinnst líf til.

Um næstu mánaðamót ætlar "vinstri stjórnin" svokölluð að hækka kaupið um 8%. Hækkunin sem átti að koma til framkvæmda samkvæmt umsaminni vísitölu var 14,13%. Aðeins 6,1% hennar kemur til útborgunar. Mismunurinn 8% er kauprán. Það skiptir engu máli þótt með skollaleik og talnakúnst hafi verið greitt fyrir kaupránið. Það sem kemur í staðinn fyrir 8% er einskis virði fyrir launþega.

Þetta er því lögbundið kauprán á nákvæmlega sama hátt og kauprán fyrrverandi ríkistjórnar í febrúar sl. Einu hagsmunir þessarar ríkistjórnar eru hagsmunir atvinnurekenda.

Samkvæmt útreikningi ríkisstjórnarinnar á að "bæta" að fullu 8% kaupránið.

3% eiga að koma með aukinni niðurgreiðslu, 3% með "almennum félagslegum réttindum" og 2% með "skattalækkun lægstu launa". Þetta lítur vel út.

En skoðum þetta betur.

3% niðurgreiðslur. Til að standa straum af niðurgreiðslunum þarf auknar tekjur ríkisins. Þær tekjur eru skatt tekjur. Launþegar eiga með öðrum orðum að greiða "kjarabótina sjálfir.

3% almenn félagsleg réttindi.

Þetta er í fyrsta lagi merkilegt fyrir þær sakir að þarna eru almenn réttindi metinn til fjár. Fyrir utan það að þessar umbætur eru lítils virði þá er í öðru lagi engin trygging fyrir því að loforð ríkisstjórnarinnar verði efnt. Í þriðja lagi þá verður bið á þessum lögum ef þau þá líta dagsins ljós.

2% skattalækkun á lægri laun. Þá vaknar spurningin hvað eru lægri laun? Við hvað á að miða? Auk þess ber að gæta gæta þess að samkvæmt fjárlagafrumvarpinu eiga skattar næsta ár að aukast. Þessu til viðbótar má benda á að jafnvel ef ríkisstjórnin stæði við loforð sitt þá kemur þessi "kjarabót" ekki fram fyrr en eftir 7-8 mánuði, þegar menn byrja að greiða þessa skatta.

Þessar prósentur eru blekking og feluleikur til að fela 8% kauprán ríkistjórnarinnar.

Það er verið að taka 8% af launþegum og fá þeim óljós loforð, blekkingar og einskisverða lagabókstafi í staðinn.

## Fyrir hverja er þetta gert

Auk þess má spyrja: ef þessar vangaveltur ríkistjórnarinnar eru kauphækkun því þá ekki a allt eins peningar til beinna kauphækkana? Svarið er einfalt. Atvinnrekendur neita að greiða umsamdar kauphækkanir upp á 14,13%. Þeir sætta sig hinsvegar við 6% hækkun gegn því að ríkið "reddi" fyrir þá því sem vantar upp á.

Ríkisvaldið er þarna að ráðast á kjör og samningsrétt launþega til að atvinnurekendur geti grætt meira en áður.

## Hlutur forystumanna verkalýðshreyfingarinnar og hinna svokölluðu verkalýðsflokka.

Hver er hlutur verkalýðsforingja verkalýðssamtakanna í þessu kaupráni?

Hinir svokölluðu verkalýðsflo flokkar hafa sýnt sig starfa á nákvæmlega sama hátt og í haldið. Alþýðuflokkurinn vill meira að segja svo mikið kauprán að framsókn blöskraði og kallar hún ekki allt ömmu sína í þeim efnum.

Athyglisvert er að forystumenn verkalýðsfélaganna eru yfirleitt sammála þessu kaupráni.

Þeir brugðust öðru vísi við sl. vetur þegar í haldið gerði svipaða hluti. Forystumenn þessara félaga eru fjarstýrðir úr miðstjórnum borgaralegu flokkanna. Þessir menn hafa yfirgefið hagsmuni launþega og taka við fyrirskipunum hjá auðherrunum

Hver eru nú aðgerðir gegn kaupráni? Hvar eru nú stóryrðin sem notuð voru sl. vetur. ?

## Íhaldið "heldur með" ríkisstjórninni.

Það er athyglisvert að íhaldið beitir sér ekki harkalega gegn ríkisstjórninni.

Íhaldið stjórnast af hagsmunum auðherranna þeir sjá að "vinstri stjórn" getur auðveldar lækkað kaupið en hin fyrrverandi-þessvegna vilja þeir láta hana í friði.

Íhaldið hefur hugsað sér að "leyfa" henni að lækka kaupið.

# Frjáls samkeppni og Eimskip

Óskabarn þjóðarinnar, Eimskip, hefur "eignast" nýtt skipafélag. Eins og menn muna var háð farmgjaldastríð milli Eimskips og Bifrastar, skipafélags bílainnflytjenda.

Eimskip lækkaði farmgjöld sín á þeim leiðum sem Bifröst sigldi einnig. Þetta var á flutningum fyrir ameríska herinn.

Eimskip er stærra fyrirtæki og gat þar af leiðandi haldið það lengur út að sigla með frakt undir verði. Bifröst gafst því upp og nú eru uppi viðræður milli fyrirtækjanna um samruna.

Menn spyrja eðlilega hvernig Eimskip, sem fengið hefur 50% hækkun á evrópufraktinni, gat lækkað verð til hersins um 50%?

Skýringin er annarsvegar sú að fyrirtækið er það stórt að það getur siglt á tapi um ákveðinn tíma. Hins vegar er skýringin líka sú að hagnaðurinn er það mikill af evrópuflutningunum að hann mátti nota til að greiða niður tapið af farmgjaldastríðinu.

Á þessu sést að þegar Eimskip syngur sönginn um versnandi afkomu þá er það falskur söngur. Gróðinn er mikill, það mikill að Eimskip getur siglt með tapi.

Þetta sýnir okkur það líka að allt tal um frjálsa samkeppni er út í hött. Það ríkir alls ekki frjáls samkeppni á Íslandi. Þvert á móti ríkir einokun, þar sem örfá risastór fyrirtæki eru allsráðandi á síðu sviði og þau nota aðstöðu sína til að bola öllum samkeppnisaðilum burt. Almenningur þarf síðan að borga brúsann og greiða það verð sem einokunarherrunum dettur í hug að setja upp.

Þess verður ekki langt að bíða að hið stækkaða Eimskip fari fram á farmgjaldahækkun vegna "versnandi afkomu og aukinna rekstrarörðugleika".




Myndin er tileinkuð "friðarviðleitni" Sadats og Begins.

LEIÐARI

# Haldlítil úrræði

Eins og kommúnistaflokkurinn hefur marg bent á. hafði núverandi ríkisstjórn engin efnahagsúrræði önnur en síðasta ríkisstjórn. Þeir fóru sömu leið, veltu byrgðunum yfir á almenning í formi kjaraskerðinga.

Í stað 14% kauphækkunar sem átti að verða 1. desember vegna verðhækkana þá kom aðeins 6,1% hækkun. Loforðið um samningana í gildi heyrist ekki jafn oft og áður . Við bíðum enn spennt eftir því að sjá í hverju kjarabætur eftir öðrum leiðum, eru fólgnar. Samt erum við hálf hrædd um að ríkisstjórninni reynist þessar aðrar leiðir vandrataðar.

Hin nýju kaupránslög ríkisstjórnarinnar verða ekki til að stöðva verðbólguna. Íslenskur verkalýður hefur fengið staðfesta sönnun fyrir því að allar aðgerðir ríkis og stjórnvalda í þá átt að stöðva verðbólguna, með því að lækka kaup launamanna eru vindhögg.

Þingmenn Alþýðubandalagsins löggðu í það mikla vinnu á síðasta þingi að sannfæra verkalýðinn um það að kauphækkanir væru ekki orsök verðhækkanna.

Í dag keppast þessir sömu menn við að sannfæra og sanna verkalýðnum um það að eina ráðið gegn verðbólgunni sé að koma í veg fyrir kauphækkanir.

Sannleikurinn breytir um svip þegar lýðskrumarar stjórnarandstöðunnar komast í ríkistjórn. Eitt skýrasta dæmið um lýðskrum í íslenskum stjórnmálum er framferði Alþýðuflokksins frá því í kosningabaráttunni fram á þennan dag. Fyrir kosningarnar höfðu engir hærra um kjarabætur og engir lofuðu meiru.

En í dag vill Alþýðuflokkurinn ganga lengst í kjararáni. Sannast þar hið fornkveðna að hæst bylur í tómri tunnu.

# Opið bréf frá KFÍ/ML til EIK(m-l)

framhald af síðu 3

kenningum Maó Tsetungs og að í tveggja línu baráttunni hafi m-l ísminn haft undirtökin. Tveggja línu baráttan innan hinnar ungu kommúnísku hreyfingar á Íslandi er hins vegar og var tvísýn, en hingað til hefur m-lisminn borið sigur úr býtum. Skv. framansögðu er það vonandi skiljanlegt að við viljum ekki gera upp við allan grundvöll KSML. Varðandi spurninguna um uppgjör vísast til fyrsta hluta skrifa þessara, sem birtust í Stb.

Seinni hluti annars liðar er fáránlegur orðaleikur. Við viljum bara spyrja hvort þær skoðanir sem uppi eru innan Eik(m-l) framfylgi sér sjálfar? Eða standa engin öfl að þeim?

Niðurstaða ykkar um afstöðu okkar til þróunar kommúnískra samtaka er byggð á forsendum sem nú falla hver um aðra þvera Við viljum því mælast til þess að þið takið afstöðu ykkar til endurmats, -og reynið að gera ykkur skýrari grein fyrir þessu atriði, en þið nú gerið.

3. KFÍ/ML hefur ekki lýst sig "sammála samfylkingarstefnu EIK(m-l)". Í fyrra svari okkar tókum við eftirfarandi tilvitnun í Sameiningargrundvöll EIK(m-l) kaflann um samfylkingar.". . Samfylkingin byggist á því að leitast er við að fylkja öllum þeim til baráttu sem hafa sameiginlega hagsmuni af framgangi ákveðins baráttumáls með tilliti til mismunandi stéttarstöðu og stéttarstöðu og stéttarvitundar en án tillits til flokksbanda.". (Sjá svar KFÍ/ML í Stéttabaráttunni 37 tlb. okt. 78.).

Þessu erum, við sammála. En við teljum að visst óssamræmi sé milli þessarar yfirlýstu stefnu og starfs ykkar í dag. Samfylkingarstarf ykkar í dag einkennist af útilokunar og einangrunarpólitík gagnvart þeim vinstrimönnum, sem ekki eru ykkur í meginatriðum sammála.

Varðandi afstöðu okkar til sa samfylkinga sem EIK(m-l) styðja í dag vísast til stb. Rauður Vettfangur sl. tlb. svar Ritnefndar við lesendabréfi. Næsti kafli við svari EIK(m-l) birtist í næsta blaði.



## ÚR BARÁTTUNNI

Mörg félög hafa nú þegar dregið uppsagnir samninga til baka, einkum þó félög þar sem flokksmenn ríkisstjórnarinnar sitja í stjórnum.

Kjarasamningur BSRB rennur þó ekki út fyrr en 1. júlí n.k.

Stjórn og samninganefnd BSRB hefur lýst því yfir að hún vilji "gefa eftir" kauphækkunina 1. mars og framlengja samninga til 1. des. 1979. Í staðinn á BSRB að fá samningsrétt.

Þannig er stjórnin búin að verðleggja samningsréttinn og er þetta í anda aðgerða ríkisstjórnarinnar nú að "greiða" kauphækkanir með "almennum félagslegum réttindum".

Þarmeð er þó ekki öll sagan sögð. Stjórn BSRB leggur afar skrítinn skilning í hugtakið fullan samningsrétt.

Venjuleg skynsemi segir okkur að þar sé um að ræða samnings- og verkfallsrétt í sérmálum eins og við gerð aðalkjarasamnings og óbundinn gildistíma samnings. En stjórn BSRB lítur svo á að aðeins sé um að ræða lengd samningstímabilsins, sem nú er lögbundið 2 ár.

Það eru sjálfsögð réttindi opinberra starfsmanna að fá fullan samningsrétt og á allsekki að þurfa að "greiða" fyrir þau réttindi.

Flokkarnir sem nú eiga aðild að ríkisstjórn hafa sumir marglýst því yfir að þeir telji þetta vera rétt opinberra starfsmanna.

Þessvegna eiga opinberir starfsmenn að krefjast fulls samningsréttar nú þegar.

Opinberir starfsmenn verða að vera vel á verði gagnvart hugmyndum um takmarkaðan samningsrétt og framlengingu samninga næsta ár. En hvort tveggja virðist vera keppikefli stjórnar BSRB.

# 8% Kauprán 1. desember

Síðan ætlar það sjálfsagt að hagnast á óánægju almennings vegna kjaraskerðingarinnar.

### Hvað tekur við?

Alþýðuflokkurinn lét bóka að hann teldi of sammt gengið í kjaraskerðingunni. Jafnframt fylgir með í lögum ríkisstjórnarinnar að þak skuli sett á næstu vísitölugreiðslu, 1. mars við 5% það þýðir að ekki á að greiða meira en 5% burtséð frá vöruverðshækkunum.

Það er því alveg augljóst að kjaraskerðingarsókn þessarar ríkistjórnar er rett að hefjast

Hún ætlar ekki aðeins að skerða vísitölubætur 1. des. 1978 heldur allt árið 1979 sjálfsagt lengur ef hún lifir. Auk þess mun hún reyna að fá samningana framlengda til 1. desember 1979 án allra kauphækkana.

Þar við bætist að þessi ríkisstjórn hefur flesta forystumenn verkalýðsfélaganna í vasanum.

Þeir eru meira og minna háðir flokkunum og hafa sýnt það að þeir taka hagsmuni flokkanna fram yfir hagsmuni launþega.

Launþegar verða því að leggj leggja til baráttu gegn þessum ráðstöfunum, gegn ríkisstjórninni og gegn þjónum hennar innan verkalýðshreyfingarinnar.









## ...í Stuttu máli

MÓTMÆLI Í SUÐUR-KÓREU.

Stúdentar í Taegu í Suður-Kóreu stóðu fyrir miklum mótmælaaðgerðum þann 7. nóv. sl. Aðgerðirnar voru til að mótmæla stjórn einræðisherrans þar.

Um 2000 stúdentar gengu hönd í hönd frá háskólanum niður í miðborg Taegu. Þeir hrópuðu kröfur sínar um lýðræði, málfrelsi og afsögn stjórnarinnar.

Lögreglan réðist að göngumönnunum. Þeir vörðust hinsvegar hetjulega gegn lögregluárásinni, eyðilögðu lögreglubíla og hertóku járnbrautarstöð borgarinnar um tíma.

50 frammámenn stúdenta voru særðir og um 200 handteknir.

Háskólanum var lokað daginn eftir með valdboði um óákveðinn tíma.

Stúdentar í öðrum háskóla í borginni gripu einnig til samskonar aðgerða.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnarsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Heimsádeila Jökuls Jakobssonar

Dufþakur

Jökull heitinn Jakobsson var afkastamikill rithöfundur og þó hann hafi aðeins verið hálffimmtugur, er hann lést, liggja eftir hann um 10 leikrit, smásögur og skáldsögur og ferðaþættir, að ógleymdum þeim fjölmörgu útvarpsþáttum, er hann hafði með höndum. Hann var kornungur þegar hann hóf sinn rithöfundaferil: í fyrstu gaf hann út nokkrar skáldsögur og smásögur, en sneri sér síðar að leikritagerð og það eru einmitt leikrit hans, sem hafa gert hann að einum vinsælasta rithöfundi síðari ára.

Þjóðleikhúsið er nú að sýna síðasta verk Jökuls, Sonur skóarans og dóttir bakarans, öðru nafni Söngurinn frá My Lai. Þetta leikrit er án efa efnismesta verk höfundar: hann lætur sér ekki nægja að lýsa bara íslenskum þjóðfélags veruleika; heimsvaldastefnan, eins og hún birtist okkur í sinni viðbjóðslegustu mynd í þriðja heiminum, er ríkur þáttur í þessu verki. Það má segja, að leikritið sé sambland af heimsádeilu og sveitarómantík, græskulausu gamni og miskunnarlausu háði. Þó mjög beri á húmor, sem er einkennandi fyrir Jökul, er undirtónninn alvarlegs eðlis.

Sögusviðið er íslenskt þorp og gerist leikurinn á okkar tímum. Atvinnutækin hafa stöðvast, en einn góðan veðurdag kemur sonur skóarans úr langri utanlandsreisu ásamt fríðu föruneyti Kapteinninn á skipinu, sem er hvort tveggja í senn, herforingi og auðjöfur, ákveður að fjárfesta í fiskvinnslustöðinni í þorpinu, sem lengi hefur staðið ónotuð. Ekki til þess að vinna hráefni úr sjónum, heldur til að framleiða vítamín til útflutnings. Það kemur svo í ljós, að "vítamín" þetta er sprengiefni til að eyða súrefni í andrúmsloftinu. Það kemur líka ýmislegt óhreint í ljós varðandi fortíð skóarasonarins: hann hefur m.a. tekið þátt í að myrða saklaust bændafólk í þágu vestræns frelsis og lýðræðis eins og það heitir.

Það væri hægt að skrifa nokkuð langt mál um þá ádeilu, sem hægt er að finna í þessu leikriti Rúmsins vegna verður þó aðeins stiklað á stóru.

Þó hlutirnir séu ekki nefndir sínum raunverulegu nöfnum, þá er augljóst hvaðan höfundurinn sækir fyrirmyndirnar. Stríðið í Víetnam og samviska okkar gagnvart þeim viðbjóðslega glæp, sem þar var framinn, er eitt megintemað í leikritinu. Skóarasonurinn hefur tekið þátt í að eyða heilu þorpi og það er augljóst hver fyrirmyndin er, enda gefur nafn leikritsins það f fyllilega í skyn - Söngurinn frá My Lai. Skipstjórinn er fulltrúi bandarísku heimsvaldastefnunnar og þorpsbúar taka honum sem velkomnum gesti. Í einu atriði leikritsins ræða nokkrir þorpsbúar um það, hvers vegna þessi auðmaður hafi einmitt ákveðið að reisa svona verksmiðju hér á landi. Og einn svarar því til, að það sé auðvitað vegna hins ódýra rafmagns. Hliðstæðan er augljós, ekki satt? Er ekki einfaldlega átt við álverksmiðjuna í Straumsvík? Og hver veit nema hluti af þeirri framleiðslu fari til hergagnaiðnaðar

Þannig mætti endalaust halda áfram að bollaleggja hin ýmsu tákn, er birtast okkur í þessu margslungna verki.

Þó finnst manni, að Jökul hafi færst of mikið í fang, ætlað að segja margt í einu leikriti, kannski full mikið. Þetta gerir að verkum, að heildarmyndin verður ekki eins sterk og ella og eflaust hefði mátt betrumbæta margt í þessu leikriti. Kannski á það sínar skýringar í því, að höfundinum entist aldrei aldur til að fylgjast með æfingum á leikritinu þar til það var tilbúið til frumsýningar.

# Opið bréf frá KFÍ/ML til EIK(m-l) 2 hluti

Í síðasta tölublaði Stéttabaráttunnar birtist fyrsta greinin í þessum flokki. Eins og þar kom fram er tilefni þessara greina, bréf sem KFÍ/ML barst fram framkvæmdanefnd EIK(m-l). Stéttabaráttan birtir bréf EIK(m-l) í nokkrum hlutum og jafnframt svör við þeim athugasemdum sem þar koma fram. Hér á eftir fer annar hluti bréfsins frá EIK(m-l) :

"1. Þið eruð mótfallin því að greina hluta verkalýðsforystunnar sem hluta auðstéttarinnar. Þið greinið sem sagt stjórnendur auðmagns á borð við Guðmund H. Garðarsson (S.H.-V.R.), Jón Helgason (Ú.A.-Eining), Eðvarð Sigurðsson (SAL-Dagsbrún) ofl. sem hluta verkalýðsstéttarinnar. Það er rangt. Það er hornsteinn réttrar baráttu innan stéttarfélaganna að ísl. verkalýðsforysta sé greind í stóran hóp innan stéttarinnar (verkalýðsaðall) og lítinn hóp auðherra utan stéttarinnar í toppstöðum efnahagslífsins og hreyfingarinnar - ósættanlega andstæðinga.

2. Þið haldið því fram að úr því barátta fyrir marx-lenínismanum/kenningum Maó Tsetung hafi farið fram innan samtaka ykkar þá séu þau marx-lenínisk (kommúnísk). Nei- spurningin er sú hvort marx-lenínisminn eða endurskoðun á honum hafi verið ríkjandi á hverjum tíma. Í upphafi KSML var það sannarlega ekki marx-lenínisminn. Hvenær gat hann þá orðið það án uppgjörs við allan grundvöll KSML ? Og í ofanálag segið þið skoðanabaráttuna í flokknum (og EIK(m-l)) vera baráttu borgaralegra og verkalýðssinnaðra afla . Þannig er hún í undantekningartilvikum - aðeins þegar menn sem ekki eru kommúnistar eiga í baráttu við þorra félaganna. Oftast er um að ræða baráttu borgaralegra og verkalýðssinnaðra skoðana. Þið hafið alranga hugmynd um þróun kommúnískar samtaka.

3. "KFÍ/ML" hefur unnið gegn, sniðgengið eða einungis stutt fundi samfylkinga sem EIK(m-l) hafa starfað með og nær undantekningarlaust verið ósammála okkur um ágæti samfylkinganna. Hvernig getið þið þá sagst vera "sammála samfylkingarstefnu EIK(m-l)"?

SVAR

1. Já, við erum mótfallin því að greina hluta verkalýðsforystunnar sem hluta auðstéttarinnar. Þessi villa ykkar er skyld þeirri villu sem KFMLr gerir og leiðir til þeirrar niðurstöðu að verkalýðsfélögin séu borgaraleg. Afstaða KFMLr kemur skýrt fram m.a. í bæklingnum "Leve de vilda strekjerna" eftir Frank Baude, kaflanum "KFMLr's resolution om den fackliga frågan" bls. 86-91. Þar segir m.a. að styrkur verkalýðshreyfingarinnar liggi fyrst og fremst í þeim stuðningi sem hún fær frá herrum sínum borgarastéttinni. Ennfremur að verkalýðshreyfingin sé samgróinn hluti og ein sterkasta stoðin undir "stéttasamvinnuríkisvaldið". Rök KFMLr fyrir máli sínu eru þau sömu og Eik(m-l) færir fram þ.e. að nefna dæmi um verkalýðsleiðtoga "sem séu launaðir af borgarastéttinni"

En varðandi þau dæmi sem þið teljið upp máli ykkar til stuðnings, þá höfum við þetta að segja:

Samkvæmt því sem við best vitum er Guðmundur H. Garðarsson blaðafulltrúi Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna og jafnframt formaður Verslunarmannafélags Reykjavíkur. Við fáum ekki séð að blaðafulltr. SH sé ráðstafandi auðmagns, fremur en blaðafulltrúi ríkisstjórnarinnar er handhafi framkvæmdavalds hennar.

Jón Helgason er formaður Verkalýðsfélagsins Einingar a Akureyri og á sæti sem fulltrúi þess í stjórn Útgerðafélags Akureyringa sem er bæjarfyrirtæki.

Eðvarð Sigurðsson er formaður Verkamannafélagsins Dagsbrúnar og á sæti í stjórn Sambands almennra lífeyrissjóða fyrir hönd þess. Hingað til höfum við ekki litið á Samband alm. lífeyrissjóða sem auðfyrirtæki og þar af leiðandi eru stjórnarmenn þar ekki þar með orðnir auðstétt.

Í engu þessara tilfella er um að ræða eigendur fyrirtækja sem arðræna verkalýð. Dæmi ykkar sýna ekki á neinn hátt að þessir menn hafi gróða (gildisauka) af störfum sínum.

Hitt er svo annað mál að við lítum á þessa menn sem ósættanlega andstæðinga verkalýðsins en það er ekki vegna stéttastöðu þeirra heldur vegna þess að þeir hafa svikið hagsmuni stéttar sinnar, þeir eru handbendi borgarastéttarinnar, stéttsvikarar. Það sem gerir þá að mikilvægum bandamanni borgarastéttarinnar er einmitt staða þeirra innan verkalýðstéttarinnar.

Til frekari útskýringar á eðli verkalýðsaðalsins birtum við eftirfarandi tilvitnun í Lenín:

"..Það er skiljanlegt,að með þessum aukagróða er auðmennirnir öðlast fram yfir þann ágóða. sem þeir kreista út úr verkalýð sín eigin lands, geti þeir mútað verkalýðsleiðtogum og þeim hluta verkalýðs, sem er bezt settur. Og auðvaldið í "framfaralöndunum" mútar þeim - mútar þeim á ótal vegu, beint og óbeint, opinskátt og í laumi.

Þessi borgaralegi verkalýður, eða "heldri verkamenn", sem í lifnaðarháttum tekjum og öllum skoðunum eru algerðir smáborgarar, er aðalstyrkur 2. alþjóðasambandsins og á vorum dögum eru þeir þjóðfélagsleg (ekki hernaðarleg) höfuðstoð borgarastéttarinnar. Þessir "heldri verkamenn" eru í reyndinni erindrekar borgarastéttarinnar innan verkalýðshreyfingarinnar, handbendi atvinnurekenda (labour lieutenants of the capitalist class), raunverulegir formælendur endurskoðunarstefnu og þjóðrembingsháttar. Í borgarastyrjöldinni á milli verkalýðs og borgarastéttar skipa þeir sér, æði margir, óumflýjanlega í raðir borgarastéttarinnar, í lið, "Versalamanna" gegn "kommúnörðum". (Heimsvaldastefnan hæsta stig auðvaldsins, Lenín)

Við greinum stéttarstöðu manna ekki á grundvelli pólitískrar afstöðu þeirra, heldur á grundvelli efnahagslegra skilyrða. Annað er hrein hughyggja.

2. Það er útúrsnúningur að halda því fram að við höfum sagt að: "úr því...séu þau m-lísk (kommúnísk) Við höfum margoft sagt að KHML/KSMLog KFÍ/ML hafi byggt og byggi á grundvelli marx-lenínismans/

framhald á síðu 2

## ÚR BARÁTTUNNI

ÞING BHM

Nýlokið er þingi Bandalags háskólamanna. Þar var gerð samþykkt um vísitölumál. Þessi samþykkt er mjög í anda stefnu Alþýðubandalagsins eins og hún kemur fram í ríkisstjórninni.

Þessi samþykkt er lítið dæmi um starfsaðferðir Alþýðubandalagsmanna en það voru einmitt alþýðubandalagsmenn sem stóðu að þessari tillögu á þinginu.

Alþýðubandalagsmenn innan launþegafélaganna leggja fram og knýja í gegn samþykktir til stuðnings stefnu ríkisstjórnarinnar.

STJÓRN VERKAMANNA-SAMBANDSINS STYÐUR KAUPRÁNIÐ

Stjórn verkamannasambandsins hefur samþykkt ályktun þar sem lýst er yfir stuðningi við aðgerðir ríkisstjórnarinnar

Það var svo sem varla við öðru að búast af Guðmundi J. Guðmundssyni en að hann styddi ríkisstjórn Alþýðubandalagsins.

En hvort sem menn trúa því eða ekki þá er þessi Guðmundur sá sami og viðhafði öll stóryrðin þegar fyrrverandi ríkisstjórn gekk á gerða samninga.

Það er greinilega ekki sama hver svíkur samninga. Þegar íhaldið gerir það heitir það kauprán en þegar svokallaðir vinstriflokkar gera það þá heitir það kjarabót og barátta gegn verðbólgu.

Við eftirlátum Guðmundi og hans skoðanabræðrum að útskýra þennan skollaleik sinn.

AÐALFUNDUR FGR

Nýlega var haldinn að aðalfundur félags gagnfræðaskólakennara í Reykjavík.

Þar voru samþykktar tvær ályktanir. Önnur var harðorð mótmælaályktun gegn þeirri hugmynd núverandi ríkisstjórnar að spara í rekstri skóla með því að fækka kennurum. Hugmyndin er sú að fjölga nemendum í bekkjum, fækka bekkjum og fækka þar af leiðandi kennurum. Á það er bent í ályktuninni að þessum hugmyndum er ekki aðeins stefnt gegn atvinnuöryggi kennara heldur og gegn starfsaðstöðu nemenda. Skorað er á kennara og nemendur að berjast hart gegn þessum hugmyndum.

Hin ályktunin var áskorun til stjórnar BSRB um að samþykkja ekki neina skerðingu á vísitölunni 1. desember.

Framkvæmdastjóri BSRB var þarna staddur og talaði gegn þessari tillögu. Benti hann á að stjórn BSRB ætlaði ekki og gæti ekki samþykkt neina skerðingu á vísitölubótum.

Við þessi orð framkvæmdastjórans má bæta því að ekki er annað séð en að stjórn BSRB ætli að samþykkja kjaraskerðinguna með þögninni.

STJÓRN BSRB VERÐLEGGUR SAMNINGSRÉTTINN

Í samstarfsyfirlýsingu ríkisstjórnarinnar er ákvæði um að opinberum starfsmönnum beri fullur samningsréttur. Jafnframt hefur ríkisstjórnin sagt að leitast verði við að afnema kauphækkanir næsta ár og framlengja samninga til 1. des. 1979.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
45. tbl. 7. árg. 28.11. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Er Phnom Penh „yfirgefin draugaborg"?

Eftirfarandi grein er byggð á grein í norska blaðinu Klassekampen sem er gefið út af Kommúnistaflokki verkamanna í Noregi. Þar segir frá ferðalagi nokkurra fulltrúa blaðsins til Kampuchea.

Borgaraleg blöð hafa verið uppfull af sögnum um fólksflutningana úr borginni. Því hefur verið haldið fram að borgin væri auð og yfirgefin. Þetta hafa íslendingar meðal annars lesið í greinum Elínar Pálmadóttur, "sérlegs fréttaskýranda moggans" í Suðaustur-Asíu. Hún ferðaðist til Thailands.

En hvernig er borgin? Er hún auð og yfirgefin? Við gefum norsku ferðalöngunum orðið.

Hlutar borgarinnar virðast eyðilegir. Þarna hafa átt heima franskir og amerískir heimsvaldasinnar. Einbýlishúsin þeirra standa auð en segja sína sögu um fyrrverandi íbúa. Á götunum eru vörubílar, eitt og eitt hjól og smábörn.

En í verksmiðjunum er líf. Margar þeirra eru komnar í gang aftur og húsin umhverfis fyllast fólki. Íbúafjöldi borgarinnar er nú um 60 þúsund, þar af vinnur helmingur við verksmiðjurnar.



Götumynd frá Phnom Penh. (Allar myndir eru frá Klassekampen í Noregi.)

Margir ungir verkamenn eru fyrrverandi hermenn. Þeir eru áfjáðir í að taka til hendinni við uppbygginguna og að læra. Að stjórna vélum krefst þekkingar.

Göturnar eru dimmar og hús eru illa upplýst. Ennþá er rafmagnsframleiðslan ekki komin í gott horf. En svo sést verksmiðja, vel upplýst og full af fólki og saumavélum Þarna er unnið allan sólahringinn: Fólkið verður að hafa nægan klæðnað. Meðfram götunum situr fólk á hækjum sínum og talar saman. Í nýuppgerðu kvikmyndahúsi fáum við að sjá ameríska fréttamynd um síðustu daga Bandaríkjanna og Lon Nol klíkunnar. Örvænting þeirra var mikil og mórallinn á lágu plani.

Eftirminnilegt atriði er þegar Lon Nol gengur með bandaríska sendiherranum til flugvélarinnar sem flutti þá í öryggið, til Bankok í Thailandi. Stuttu seinna sótti frelsisherinn inn í borgina.

## Brottflutningarnir voru nauðsynlegir

Á 7. áratugnum voru íbúar Pnom Penh 300 þúsund. Eftir valdarán Lon Nols hækkaði íbúafjöldinn upp í 6 milljónir. Þessi skyndilega fólksfjölgun varð vegna mikilla birgðaflutninga bandaríkjamanna til borgarinnar. 50 þúsund tonn matvæla ogannars varnings var vikulega flutt til landsins. Þessir birgðaflutningar bandaríkjamanna stöðvuðust jafnskjótt og Lon Nol klíkan féll. Hvernig átti þá hin nýja byltingarstjórn að fara að því að fæða allan þennan fjölda? Til að koma í veg fyrir hungursneyð var því nauðsynlegt að flytja fólk úr borginni. Þetta var gert í Phnom Penh og nokkrum öðrum borgum. Önnur ástæða var sú að í borgunum var fjöldi njósnara Bandaríkjanna og Lon Nol klíkunnar. Átti að veita þeim starfsfrið við að velta hinni nýju ríkisstjórn úr sessi?

Til að metta marga munna þarf margar hendur og ekki síst í landi þar sem landbúnaður er stundaður með afar frumstæðum verkfærum og aðferðum.

Án þessara fólksflutninga hefði stjórninni aldrei tekist að leysa vandamálið með matvælaframleiðsluna á árinu 1976 eins og gerðist. Það er jafnvel vafasamt hvort það hefði yfirleitt tekist.

Þessir miklu þjóðflutningar voru því nauðsynlegir til að hægt væri að fæða þjóðina. Og það tókst fyrir árslok 1976.

## Viðbrögð fólksins

Erfitt er að svara þessari spurningu í smáatriðum. Mjög margir hafa vafalaust séð að brottflutningarnir voru eina lausnin á hinum gífurlegu vandamálum bæjanna. Lon Nol klíkan hafði fengið allan stuðning frá Bandaríkjunum og landið var alls ekki sjálfu sér nægt með matvæli. Verst var ástandið að sjálfsögðu í borgunum þar sem matvælaframleiðslan var lítil sem engin.

Við urðum ekki vör við neina sérstaka óánægju. Jafnvel ekki í samyrkjubúi þar sem helmingurinn var fólk sem hafði verið flutt frá Phnom Penh.

Þetta er að vísu yfirborðsleg athugun en ef óánægjan og hörmungarnar hefðu verið jafnmiklar og borgarapressan segir frá þá hafðu átt að sjást þess merki.

## Fólkið var rólegt, ánægt og vel haldið.

Sömu reynslu fengum við einnig af ferðalagi okkar um landið. Við gátum hvenær sem við vildum, stoppað og talað við hvern sem var: Manninn með handvagninn, strákinn xxx með vatnabuffalinn, "ömmuna" í samyrkjubúinu o.s. frv. Alls staðar var tekið vel á móti okkur og fólk svaraði spurningum okkar hiklaust og rólega.

Að lokum má benda á það að allar frásagnir borgaralegu blaðanna eru fengnar frá tveimur uppsprettum. Annaðhvort frá fólki sem aldrei hefur til Kampuchea komið (eins og "fréttaskýrandi" moggans, innskot Stéttabaráttunnar) eða frá fólki sem misst hefur forréttindi í landinu eftir frelsunina og flúið til annarra landa.



Eins og sést á þessari mynd var mikil eyðilegging í borginni af völdum stríðsins. Starfið við endurreisn borgarinnar er því gífurlegt og krefst mikillar fórnfýsi.



Fyrir utan matvælaframleiðslu er nauðsyn að framleiða aðrar vörur, til dæmis klæðnað. Um helmingur íbúa Phnom Penh vinnur í verksmiðjum þar. Þessi mynd sýnir verkamenn fyrir utan eina verksmiðju borgarinnar.